# Stuttur

# Leidarvísir í Reiknings-list

handa Bændafólki,

samantekinn og útgéfinn

af

## S. Br. Sivertsen

prešti til Utskála og Hvalsness = safnada.

---

Videyar Klaustri.

1841.

# 1. Kapítúli.

## Um Tøluleſtur og þær 4 tegundir einskynjadra talna.

### §. 1.

### Um Tøluleſtur.

Þad fyrsta sem útheimtist til Tølu-eda Reikníngs-Listarinnar, er ad þekkja tølurnar og ad géta lesid úr þeim. Almennt brúkast nú Siffru-tølur, sem hafa tíu (10) ólíkar myndir, en merkíngu þessa:

1, þýdir einn eda eina einíngu.
2, — tvo eda tvær einíngar.
3, — þrjá eda þrjár einíngar.
4, — fjóra eda fjórar einíngar.
5, — fimm o. s. fr. v.
6, sex. 7, sjø. 8, átta. 9, níu.
0 — núllid merkir alls ekkért, standi þad eitt sér, eda í upphafi, en standi einhvørr af nefndum

tølustøfum á undan, þá fær hann merkíngu eptir sínu sæti, því í fyrsta rúmi til hægri handar merkir hann eins margar einíngar og hann ávísar; í ødru rúmi, eda sá tølustafur sem þar er fyrir framan, eins opt 10 eda eins marga tugi, eins og síffran innibindur í sér margar einíngar; í þridja rúmi eins opt hundrud; í fjórda rúmi eins opt þúsund; í fimta rúmi eins opt tíu þúsundir; í sjøtta rúmi eins opt hundrad þúsundir og í sjøunda rúmi eins margar þúsundir þúsunda, sem og svo kallast millíón; en núllin eru alleina til uppfyllíngar, til ad sýna audu sætin, t. d. 40 (fjørutíu) þýdir 4 tugi og aungvar einíngar, væri ekki þad 0 sett, þá sæist ekki ad 4 sitja í ødru rúmi. Eptir þessu verdur þá 596 fimm hundrud níutíu og sex; 7,280 sjø þúsund tvø hundrud og áttatíu; 35,685 þrjátíu og fimm þúsund sex hundrud áttatíu og fimm; 878,505 átta hundrud sjøtíu og átta þúsund fimm hundrud og fimm; 4,508,708 fjórar millíónir fimm hundrud og átta þúsund sjø hundrud og átta. Til léttirs í tølulestri eru reikníngsmenn vanir ad skipta tølunni med kommum hvørt sem hún er laung eda stutt í flokka, frá hægri hendi til vinstri þannig: ad þrír stafir komi í hvørn; en seinasti flokkurinn vinstra megin verdur þá annadhvørt einn tveir eda þrír tølustafir. Þá verdur hvørr þrístafadur flokkur lesinn sem hundrud, tugir og einíngar;

en þessar eíníngar kallast í ødrum flokki frá hægri hendi: Þúsundir, í þriðja flokki milliónir, í 4ða flokki Þúsundir (milljóna), í fimta flokki Billjónir, í sjøtta flokki Þúsundir (Billjóna) o. s. frv. Fyrir ofan tøluna er og so til léttirs að setja kommur, þá fyrstu yfir 7da staf eda þridja studuls eíníngastaf; tvær kommur yfir fimta studuls eíníngastaf, þrjár yfir sjøunda o. s. frv. lesa síðan þessar kommur fyrir Milljónir Billjónir o. s. frv.

Dæmi: 12,856,876 tólf milljónir átta hundrud fimtíu og sex þúsund átta hundrud sjøtíu og sex. 926,856,012 níu hundrud tuttugu og sex milljónir átta hundrud fimtiu og sex þúsund og tólf. 7,217,000,000 sjø þúsund tvø hundrud og seytján milljónir. 1,174,111,001,011 ein Billjón eitt hundrad sjøtíu og fjøgur þúsund eitt hundrad og ellefu milljónir eitt þúsund og ellefu. Fyrir viðvaníngа væri máské gótt að læra þá alkunnu vísu:

Sig mest merkir hinn fyrsti, man tíu kvad annar, hundrad þýdir hinn þridji. þúsund fjórða vel grunda; tíu þúsund tel fimta, tel hundrad þúsund sjøtta, sjøunda mér klerkar kéndu, að kalla þúsund þúsunda.

## §. 2.

## Samlagning. (Additio).

Að leggja saman er að finna þá tølu,

sem er eins stór og tvær adrar eda fleiri. Talan sem framkémur vid samlagnínguna, heitir Summa, en tølurnar sem samanleggjast, heita Samleggendur. Samlagníngin er þá ekki annad enn Summa einskynjadra talna. (Þær tølur sem ekki eru einskynjadar, verda ei lagdar saman, eins og þær koma fyrir). Þegar leggja skal saman, er adgætandi, ad hvør tala sem saman á ad leggja skrifist útaf fyrir sig í línur, hvør nidurundan annari svoleidis, ad stafur standi rétt undir staf, eining undir eining, tugur undir tug o. s. frv. hvørsu margir stafir sem í tølunum kunna vera. Ad því búnu gjørist þverstrik undir Tølurnar, og er þá farid ad leggja saman, og byrjad ad aptanverdu á einíngunum fyrst. Verdi þá úr þeim meir en 9 einíngar, svo ad skrifa þurfi tvo tølustafi, kémur einn eda fleiri tugir, sem geimdir eru, til ad bæta vid næstu tugastafa = rød, en einíngarnar skrifast undir einínga = rød Samleggenda fyrir nedan þverstrikid. Ad því búnu leggjast tugirnir saman, og verdi þeir, ásamt hinum geimdu tugum, fleiri en 9, svo rita þurfi tvo stafi, þá skrifast sá undir tugarød Samleggjenda, sem hægramegin er, en hinn geimist og leggst vid hundrada rødina. Med líkum hætti eru lagdar saman hinar Tøluradirnar; hundrud saman og þúsund saman. Seinast skrifast sú tala fremst til vinstri handar, sem, ádur en

dæmid var búid, var vant ad geima og bæta vid næstu toluradir.

Til er Samlagníngar-tabla, en hana þurfa gáfadir og greindir únglíngar ekki ad læra, fremur en vill, því þeir eiga hægt med í huganum, ad bæta einni tolu vid adra, og leggja svo saman, til ad minda í dæminu: 1234

segi eg: 3 og 1 eru 4 og 566

6 til eru 10 og 4 til eru 21

14, skrifa eg 4, sem eru 3

einíngar, fyrir nedan þverstrikid, nidurundan einínga stafarødinni, en geimi 1, sem er tíu eda einn tugur, til ad bæta honum vid tugarødina; þá 1 geimdur og 2 eru 3 og 6 eru 9 og 3 eru 12, skrifa 2 undir, sem eru tugir, en geimi 1, sem er hundrad; 1 geimdur og 5 eru 6 og 2 eru 8, þad eru svo mørg hundrud; nú er enginn geimdur, svo ekkert bætist vid 1 þúsund, og færist því nidur fyrir þverstrikid, eins og þad er.

Dæmi:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. 109 | 2. 1,234 | 3. 564 | 4. 7,890 |
| 257 | 123 | 1,230 | 300 |
| 879 | 50 | 731 | 20 |
| 128 | 362 | 3,252 | 5,600 |
| 577 | 5,671 | 234 | 1,354 |
| 948 | 7,440 | 6,011 | 15,164 |
| 219 | | | |
| 107 | | | |
| 548 | | | |
| 829 | | | |
| 309 | | | |
| 28 | | | |
| 738 | | | |
| 5,676 | | | |

Merk: $+$ er Samlagníngarmerki; það ávísar að tølur þær sem það stendur á milli egi að leggjast saman, og þýðir: og, að auki; t. d. $2 + 4$ eru 6, sama sem: 2 og 4 að auki, eru 6. Merkið $=$ heitir Jafnaðar-merki, og þýðir: er sama sem, er jafnt; t. d. $6 + 12 = 18$, það er $6 + 12$ er sama sem eða jafnt 18.

## §. 3.

### Frádragníng (Subtractio).

Að draga frá, er að finna mismun tveggja talna, sem géfnar eru, og má sú þriðja tala, sem út kémur, heita mismunur. Í Frádragníngunni eru ekki géfnar nema tvær tølur, er heita Minkandi og Frádragi, skrifast þær hvør undir aðra, einsog í Samlagníngunni, að Eining sé undir Eining og Tugur undir Tug o. s. fr., svo er byrjað að draga þá minni tølu, sem undir er skrifuð (Frádragann) frá þeirri stærri, (Mink-

andanum) og er þá fyrst tekinn fyrir einíngar-stafurinn í báðum tølunum; sé hann stærri í Mínk-anda, er hægt að finna mismuninn, sem verður þeirra á milli. Nú kann Einínga-stafurinn í Frá-draga að innihalda fleiri Einíngar, en þar standa uppundan í Mínkanda; verður þá að taka til láns 1 Tug frá næsta tuga-staf í Mínkanda, og þýðir þá svo mikið sem tíu Einíngar, t. a. m. taki eg 1 Tug til láns, og bæti honum við 7, eru það 17, og þá verður hægt að draga þann neðri Ein-íngar-staf, frá þeim aukna efri. Séu þeir Tølu-stafir eins, sem frá ega að dragast, kémur enginn afgángur, og skrifast þá 0. Þegar búið er að draga frá Einíngar-stafnum, kémur næst Tuga-stafurinn, og með hann er eins farið; þurfi til láns að taka, og sá neðri Tuga-stafur verði minni, er tekið eitt hundrað til láns frá hundraða stafn-um, það eru tíu tugir, svo taki eg 1 hundr-að til láns við 8 tugi, verða það 18, og eins er haldið áfram með hundraða- og þúsunda-staf, en altaf aðgætt, hvaraf tekið var áður, því þar mínk-ar talan um 1, og er lítið strik (') sett til minn-is, ofantil við þann staf, sem frá var lánað. Sé nú 0 stafur sá, sem einhvør gildandi stafur á að dragast frá, tek eg eptir áðursøgðu 1 til láns frá næsta staf (hvað sem þýðir) og ímynda mér þá að 1 standi fyrir framan, og verði 10; (hvørt sem það

eru Einíngar, Tugir eda Hundrud) en hafi eg ádur verid búinn ad lána 1 frá 0, þenki eg mér ad 9 standi eptir, því þá tek eg tvo tölustafi saman, t. d. 1 til láns frá 30, lætur eptir 29 Séu tölur fleiri í efri línunni, (Mínkanda) og standi framundan, eru þær látnar koma nidur í mismuninn. Frádragníng er svo audlærd, ad ei þarf um hana fara fleiri ordum; hana má prófa, med því ad leggja saman Frádragann og mismuninn; á þá Mínkandi óbreyttur ad koma út.

Dæmi:

1.

| | |
|---|---|
| 301,497<br>15,199<br>286,298 | hér segi eg: 9 frá 17 er eptir 8, sem skrifast undir 9; 9 frá 18 (því 1 var ádur lánadur af 9 til ad bæta vid 7) er eptir 9 sem færast nidur; 1 frá 3. eru eptir 2; 5 frá 11 er eptir 6; 1 frá 9 er eptir 8; loksins færast 2 nidur, af því 1 var lánadur af 3. |

| 2. | 3. | 4. | 5. | 6. |
|---|---|---|---|---|
| 7,853 | 142,598 | 8,562 | 4 802 | 9,200,008 |
| 5,241 | 1,378 | 1,937 | 3 425 | 3 572,953 |
| 2,612 | 141,220 | 6,625 | 1,377 | 5,627,055 |

Prófun:
5,241
2,612
7,853

Merk: Frádragníngar-merki er — og þýdir afnám (minus) t. d. 14—7=7.

## §. 4.

### Margføldun. (Multiplicatio).

Ad margfalda, er ad finna þá tölu, sem eins opt er samanløgd vid sjálfa sig, og margfaldarinn sýnir. Tvær tølur koma hér fyrir, einsog í Frádragníngu; vant er ad skrifa þá minni nedanundir; tølurnar géta líka verid jafnar, heitir efri talan Margfaldandi (Multiplicandus) þ. e. sú tala sem á ad margfaldast. Nedri talan á ad margfalda þá efri, og heitir hún Margfaldari (Multiplicator). Sú tala sem fram kémur vid Margføldunina, kallast próðúkt. Margføldun er ei annad en opt ítrekud Samlagníng sømu tølu vid sjálfa sig, því hvørt sem eg segi 5sinnum 5 eru 25, eda skrifa 5, eptir Samlagníngar reglum, fimm sinnum í rød, hvørja nidurundan ødrum, og legg svo saman, kémur fyrir sama. Í Margføldun koma fyrir tvø tilfelli: 1, þegar margfalda skal med einum tølustaf, og 2, med fleirum.

Vidvæníngar ættu sér til léttirs ad læra þá svonefndu Margføldunar-tøblu;

## Margføldunar = tabla:

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 2ſinn: | 2 eru 4 | 4ſinn: | 4 eru 16 | 7ſinn: | 7 eru 49 | | |
| | 3 — 6 | | 5 — 20 | | 8 — 56 | | |
| | 4 — 8 | | 6 — 24 | | 9 — 63 | | |
| | 5 — 10 | | 7 — 28 | | 10 — 70 | | |
| | 6 — 12 | | 8 — 32 | 8ſinn: | 8 eru 64 | | |
| | 7 — 14 | | 9 — 36 | | 9 — 72 | | |
| | 8 — 16 | | 10 — 40 | | 10 — 80 | | |
| | 9 — 18 | 5ſinn: | 5 eru 25 | 9ſinn: | 9 eru 81 | | |
| | 10 — 20 | | 6 — 30 | | 10 — 90 | | |
| 3ſinn: | 3 eru 9 | | 7 — 35 | 10ſinn: | 10 er 100 | | |
| | 4 — 12 | | 8 — 40 | | | | |
| | 5 — 15 | | 9 — 45 | | | | |
| | 6 — 18 | | 10 — 50 | | | | |
| | 7 — 21 | 6ſinn: | 6 eru 36 | | | | |
| | 8 — 24 | | 7 — 42 | | | | |
| | 9 — 27 | | 8 — 48 | | | | |
| | 10 — 30 | | 9 — 54 | | | | |
| | | | 10 — 60 | | | | |

Sé ekki nema 1 Tøluſtafur, ſem margfalda ſkal med, ſkrifaſt hann undir eininga=ſtaf Margfaldanda, því á honum er fyrſt byrjad ad margfalda, og ſvo haldid áfram, fram eptir til vinſtri handar. Nú er ekki annad á ſig ad ſetja, en ad ſkrifa rétt ſtafina nedanundir, ſvo ad Eining verdi undir Eining og Tugur undir Tug o. ſ. frv. en innihaldi hvørt um ſig fleira en 9, ſvo ad ſkrifa þurfi tvo Tøluſtafi, geymiſt þad frá Einingunum til næſta Tugaſtafs, og frá Tugunum til hundrada ſtaffins; en þegar ſtafirnir í Margfaldanda eru

búnir, geymist ekki lengur, en skrifast þá í einu lagi, en þó svo, að stafurinn sem meira gyldi hefur, gángi framundan.

Undir Margfaldara er dregið strik, en próduktið eða útkoman skrifast undir strikið með áðursögðum hætti; t. d. í dæminu

| | |
|---|---|
| 59,873<br>4<br>239,492 | tek eg svo til orða: 4 sinnum 3 eru 12 skrifa (seinni stafinn) 2, geimi 1; 4 sinnum 7 eru 28 og 1 geimdur eru 29, skrifa 9 geimi 2; 4 sinnum 8 eru 32 og 2 |

geimdir eru 34, skrifa 4 geimi 3; 4 sinnum 9 eru 36 og 3 geimdir, eru 39, skrifa 9 geimi 3; 4 sinnum 5 eru 20 og 3 geimdir eru 23, sem eg færi í einu lagi niður fyrir strikið; þó svo að 2 gángi framundan, því þeir hafa meira gyldi en 5 í margfaldanda (5 er 10 þúsunda-stafur en 2 er 100 þúsunda-stafur).

Þar sem núll (0) er í Margfaldara, skal yfir það hlaupa, svoleiðis að núll skrifist þar undir í próduktinu; eins: ef 0 kémur fyrir í Margfaldanda, fæst ei annað en 0 í próduktið, nema nokkuð sé geimt, er þá skrifast í stað núllsins. Séu 0 eitt eða fleiri í endanum á Margfaldara eða Margfaldanda, þarf ekki sér af þeim að skipta, fyrr en á endanum, að þau eru øll (eða eins mørg) skrifuð fyrir aptan próduktið, t. d.

$$\begin{array}{r}500\\40\\\hline 20,000\end{array}$$

Sama er nú aðferðin, þegar margfalda á með fleiri

tølustøfum, hvad hvørn tølustaf útaf fyrir sig snertir, einúngis er adgætandi, ad pródúktid útaf hvørjum Tølustaf, skrifist í línu fyrir sig, og er byrjad á fyrsta staf til hægri handar, sem er einíngastafur Margfaldara; med honum margfaldast fyrst allur Margfaldandi, þarnæst med tugastaf Margfaldara, þá med hundrada = stafnum, o. s. frv. Rúminu undir, rædur stafurinnsem margfaldad er med: sé hann eining, kémur 1ti stafur pródúktsins í eínínga-sæti; sé hann Tugur, þá í tugasæti; gengur svo talan framundan sér, ad altaf vid hvørn staf, er byrjad ad skrifa undir, einu sæti framar. Yfir þann staf, sem búid er ad margfalda med, dreg eg strik og tek svo fyrir þann næsta. Seinast dreg eg strik undir allar línurnar, sem út komu af þeim mørgu støfum í Margfaldara, og legg þær svo saman, eptir Samlagníngar reglum; 1 margfaldar ekkert, þó má ekki hleypa þeim staf undan, heldur skal þá skrifa margfaldanda, í þeirri línu, óumbreyttann undir.

D æ m i:

| 1. | 2. | 3. | 4. |
|---|---|---|---|
| 60,254 | 5,729 | 1234 | 345678 |
| 23 | 438 | 205 | 120 |
| 180,762 | 45,832 | 6170 | 6,913,560 |
| 1,205,08 | 17,187 | 24680 | 345,678 |
| 1,385,842 | 229,16 | 252,970 | 41,481,360 |
| | 2,509,302 | | |

Merk: Margføldun má prófa, bædi med því ad umsnúa Margfaldanda og Margfaldara, og líka med því ad skrifa upp Margfaldanda eins opt, til Samlagníngar, einsog Margfaldarinn tilvísar.

## §. 5.

### Deilíng.

Ad skipta edur deila er ad vita, hvør su opt ein gésin tala innibindst í annari tølu, sem líka er gésin; eda: hvad opt eina tølu má draga frá annari. Sú tala, frá hvørri draga skal, eda sem skiptast á, kallast **Deilandi**, en hin talan, sem frá honum á ad dragast, svo opt sem verdur, nefnist **Deilir**, af því hún deilir eda skiptir Deilanda í vissa hluti. Deilíng er þessvegna: ad skipta deilanda í einsmarga hluti, og Deilir ávísar; þad sem út kémur heitir Kvóti, og sýnir hvad opt Deilirinn innibindst í Deilanda.

Merk: Deilíngar-merki er tveir púnktar (:) t. d. 15 : 5 þad er, ad 15 egi ad skiptast í 5 stadi, og er þá svo til orda tekid 5 í 15, hefi eg 3svar.

Þ Deilir eru ýmist einn Tølustafur eda fleiri; og er vant ad skrifa hann útaf fyrir sig í hálfhríng ) fyrir framan Deilanda. Sé í Deilir ekki nema 1 Tølustafur, skrifast Kvótinn undir Deilanda, en strik dregid í milli; séu þarámóti fleiri

stafir í honum, fellur útreikníngurinn undir Deilanda, en Qvótinn skrifast þá í ødrum fráśnúnum hálfhríng (, fyrir aptan Deilanda.

Sé í Deilir ekki nema einn Tølustafur, þá er adgætt, hvad opt Deilirinn má hafa í fremstu síffru Deilanda, vinstra megin, en sé þessi minni en Deilirinn, þá er gèfid gætur ad, hvad opt hann verdi hafdur í tveimur fyrstu tølum Deilandans, og er þá vant ad setja lítinn púnkt, nedan vid tøluna, til ad sýna, hvad mikid madur tekur fyrir sig af Deilandanum í einu, og kallast þad Sérdeilandi. Qvótinn skrifast undir Sérdeilanda, og med þessum Qvóta margfaldast Deilirinn, og pródúktid dregst frá Sérdeilanda og afgángurinn sezt fyrir ofan seinni stafinn í Sérdeilanda, ellegar í huganum tmindast framanvid næstkomandi Deilanda-staf, hvøred, ásamt afgánginum, verdur næsti Sérdeilandi; og þannig er áfram haldid, uns Deilandi þrýtur, t. d.

| | |
|---|---|
| 21<br>7) 5,894<br>842 | Hér segi eg: 7 í 58 hefi eg 8 sinnum, skrifa 8 undir seinni stafinn í 58; 8 sinnum 7 (deilir margfaldadur med qvóta) eru 56; 56 frá 58 (pródúktid dregid |
| eda<br>7) 5.894<br>842 | frá Sérdeilanda) eru eptir 2, sem annadhvørt skrifast uppfir seinni staf Sérdeilanda, eda tmindast framanvid næstu |

9, svo næsti Sérdeilandi verdur 29; þá segi eg: 7 í

29 hefi eg 4 sinnum, 4 sinnum 7 eru 28, 28 frá 29 er eptir 1, sem annadhvørt sezt yfir 9, eda ímindast framanvid 4, verdur því næsti Sérdeilandi 14; 7 í 14 hefi eg 2 sinnum, skrifa 2; Svar 7 eru 14, 14 frá 14 gengur ekkert af.

Sé meir en einn stafur í Deilir, þá afmarkast framanaf Deilanda eins margir stafir og eru í Deilir; en sé sá 1ti stafur í Deilanda minni en fyrsti stafurinn í Deilir, eda þeir fyrstu af Deilanda minni enn þeir fyrstu einsmørgu af Deilir, þá afmarkast einum fleiri af Deilanda en eru í Deilir; þessir afmørkudu stafir verda þá sá fyrsti Sérdeilandi; Qvóta = stafurinn skrifast í hálfhríngin, fyrir aptan Deilanda, eins og ádur er sagt, en próduct Deilirs og Qvóta = staffins ritast nú undir Sérdeilanda og dregst frá honum, eptir Frádragníngar = reglum. Aptanvid mismuninn skrifast næstkomandi stafur Deilanda, og verdur med honum nýr Sérdeilandi. t. d. ef deila skyldi 80293 med 3491, þá gjørist þad þannig: 3,491) 80,293 (23

```
          6,982.
          10,473
          10473
          00000
```

Sé bædi í enda Deilirs og Deilanda 0, þá má skéra jafnmørg 0 aptanaf hvørjum fyrir sig, til ad stytta fyrir sér, en sídan er haldid

áfram med deilíngunna. Gángi nokkud seinast af Deilanda, sem minna er enn Deilirinn, skal þad skrifast aptanvid Qvótann, fyrir ofan lítid þverstrik, en deilirinn undir; þad kallast brot, sjá 3ja og 4da Dæmi hér næst á eptir.

Deilíngu má prófa med því ad margfalda saman Deilir og Qvóta, og bæta vid pródúktid seinasta afgángnum, þá á út ad koma Deilandi.

Dæmi.

1. 7) 58.94 — 842

2. 6) 36.54 — 609

3. 5) 43.8 — $87\frac{3}{5}$

4. 412) 895.2 ($21\frac{300}{412}$
824.
712
412
afgáng. 300

5. 615) 432184 ($702\frac{454}{615}$
4305..
1684
1230
afgángur 454

6. 12ØØ) 480ØØ (40
48.
0

Merk: Þegar Deilir hefir eitt eda fleiri 0 í endanum, má afskéra þau fyrst um sinn, og líka einsmargar Siffrur af endanum á Deilanda, en bæta þeim seinast aptanvid afgánginn í brot-líkinu aptanvid Qvótann.

Dœmi.

| 1. | 2. |
| --- | --- |
| 24\|00) 53762 (22$\frac{962}{2400}$ | 36\|0) 8283 (23$\frac{3}{360}$. |
| 48. | 72. |
| 57 | 108 |
| 48 | 108 |
| afgángur 9 | |

Deilíngu má prófa með því að deila Deilanda með Qvótanum, og þá á út að koma Deilir. Uppá líkann máta má prófa Margføldun, með því að deila Margfaldanda með próduktinu, og á þá út að koma Margfaldari.

## 2. Kapituli.

### Um margskyns-tølur.

### §. 6.

#### Um margskyns-talna gyldi og tegundir.

Margskyns-tølur kallast þær tølur, sem hafa vissa þýðíngu, fyrir utan það, sem þær í sjálfum sér innibinda, þ. e. Tølutegundir.

Reikníngur Margskyns-talna er auðveldur, þegar búið er að læra þær 4 tegundir Einskynjaðra talna, og leggja merki til hvørsu margar Einíngar af minstu tegund innibindast í einni Ein-

(2*)

íngu af hærri tegund, og er þá ekki önnur reglan, en að deila þeirri tölu, sem út kémur af saman-lagðri eða margfaldaðri tölu minnstu tegundar, með þeirri tölu, sem innibindur eða ánefnir eina Einíngu hærri tegundar, t. d. gjöri eg 64 sk. að mörkum, þá deili eg 64 með 16, því 16 Einíngar af þeirri lægstu tegund, innihaldast í einni Ein-ingu hærri tegundar, nefnil: mörkunum, og verða það þá 4 mörk. Að gjöra 85 lóð að pundum, skeður uppá líkan hátt, með því að deila með 32 (því svo mörg lóð eru í pundi) og er þá svo að farið: 32) 85 (2 ℔

64

21 lóð (afgángurinn). — Kvótinn er svo margar Einíngar af þeirri hærri tegund, en afgángurinn er svo margar Einíngar af þeirri minni. Líka má gjöra hærri tegund að fleirum minni teg-undum, með því að margfalda með þeirri tölu sem géfur til kynna svo margar einíngar, sem sú hærri inniheldur, t. d. að gjöra 15 rbdl. að mörk-um þá margfalda eg þá með . 6

90 mörk.

Það verður því að læra, að þekkja gyldi hvorrar tegundar, sem fyrir kémur í Margskyns-tölum, og hvað opt hvör tegund inniheldst í ann-ari hærri.

## a) Peninga-gyldi.

1 dønsk Spesía gyldir 2 rd

½ — — — 1 rd

⅔ — — — 1 rd 32 ß

⅓ — — — „ — 64 ß

1 Króna — 1 rd 12 ¾ ß

½ króna eda túm. — „ — 54

1 Ríxort heilt . „ — 38 ⅖ ß

5 á móti Spesíu.

⅛ Sp. eda túmarks pen: „ — 32 ß

1 Marks pen: gamall „ — 24 ß

Tískildíngur gamall

eda marks peníngur „ — 16 ß.

12 móti Spesíu.

| | | |
|---|---|---|
| áttskildíngur gamall | — 12⅘ ß | 3 skild. 3 ß |
| áttskildíngur nýr | — 8 ß | 2 skild. 2 ß |
| ½ tískildíngur gamall | — 8 ß | 1 skild. 1 ß |
| 4 skildíngur . . | 4 | |

1 rbdl. er 6 mørk eda 96 ß

5 — eru 80 ß

4 — eru 64 ß

hálfur dalur 3 — er 48 ß

2 — — 32 ß

1 — — 16 ß

Ríxort er 24 ß

1 ß 12 peníngar.

### b) Fiskatals Reikníngur.

1 lest er 12 tunnur eða 30 vættir.
1 vætt er 40 fiskar eða 8 fjórðúngar.
1 fjórðúngur er 20 merkur eða 5 fiskar.
1 fiskur er 4 merkur.

### c) Landaura og álna Reikníngur.

1 Hundrað er 20 aurar eða 120 al.
1 eyrir er 6 álnir
1 alin er 2 fiskar

### d) Mælir á rennandi vøru:

| | | |
|---|---|---|
| 1 tunna heldur 15 kúta eða | | 120 potta |
| 1 ankér | — | 40 potta |
| ½ ankér | — | 20 potta |
| 1 kútur | — | 8 potta |
| ½ kútur | — | 4 potta |

1 pottur er 2 merkur, ½ pottur er 1 mørk eða 2 pelar
1 peli er ½ mørk.

### e) Stór og smá vigt:

1 Sk℔ er 4 vættir eða 20 L℔.
1 L℔ er 16 ℔
1 ℔ er 2 merkur eða 32 lóð.
1 lóð er ½ uncía eða 4 kvintin.

### f) Vegamæling og álna.

1 dønsk míla er 24000 dønsk fet eda 6000 fadmar.
1 þýzk míla er 4000 fadm, jafnlaung og 1 vika sjáf.
1 þíngmannaleid er 5 þýzkar mílur
1 Bæarleid er 720 fadmar.
1 fadmur er 3 álnir eda 6 fet
1 alin dønsk er 4 kvartil eda 24 þumlúng. eda 2 fet.
1 kvartil er 6 þumlúngar
1 fet er 12 þumlúngar eda 4 þverhandir.
1 þverhønd er 4 fíngur.

### g) Teljandi vara.

1 Lest af kornvøru er 12 tunnur.
1 Tunna er 8 skeppur eda 18 kútar eda 144 pottar.
1 Salt = eda Steinkola = tunna er 22 kútar.
1 Skeppa er 18 pottar.
1 Dúsín og 1 Tylft inniheldur 12
1 Hrís pappír er 20 bækur.
1 bók af skrifpappír er 24 arkir.
1 bók af prentpappír er 25 arkir.

### h) Tímatals Reikníngur.

1 ár hefur 365 daga, 12 Almanaks mánudi en 13 fjøgra vikna mánudi og nærfelt 6 tíma, eda 52 vikur 1 dag og 6 tíma.
1 vika er 7 dagar.
1 dagur med nóttu er 24 tímar.
1 tími er 4 qvarter eda 60 mínútur (skrifist 60′).

1 mínúta er 60 secundur (60″).
Hlaupár hefur 366 daga.

## §. 7.

### Samlagníng.

Þegar leggja skal saman Margskyns-tølur, er athugandi, ad einskynjadar tølur eda tegundir, skrifist hvør undir adra; byrjar þá samlagníngin á þeim smærstu tølum eda tegundum, til hægri handar, fáist þá einn heill, af sømu tegund, sem næst er fyrir framan, med deilíngu, bætist hann vid, eda geimist þángadtil farid er ad leggja saman þá tegund, en afgángurinn er settur undir sømu tegund, sem í var haft, eda saman var løgd; eins skal fara med adra rødina, og hinar ef fleiri eru.

Dæmi:

1.

| | | |
|---|---|---|
| 3 rd | 4 mk | 8 ß |
| 5 | 2 | 3 |
| 8 | 3 | 15 |
| 4 | 5 | 12 |
| 22 | 4 | 6 |

hér deilast ß med 16, sem er 1 mk og mørkin aptur med 6, sem er 1 rd

2.

| | | |
|---|---|---|
| 4 vættir | 1 fjórd. | 5 merkur |
| 6 | 5 | 13 |
| 9 | 7 | 16 |
| 5 | 6 | 15 |
| 8 | 4 | 19 |
| 3 | 2 | 7 |
| 7 | 3 | 11 |
| 12 | 5 | 17 |
| 58 | 6 | 3 |

hér deilast merkur med 20, sem er 1 fjórdúngur en fjórd: med 8, sem er 1 vætt.

3.

| | | |
|---|---|---|
| 493 rd. | 54 ß | Hér deilast ß med 96, |
| 69 | 74 | sem er 1 rd. |
| 70 | 13 | |
| 180 | 92 | |
| 814 | 41 | |

Ad gjøra marga skildínga ad rixdølum má annadhvørt med því, ad skéra tvo tølustafi aptanaf skildíngatølunni, og margfalda þad sem fyrir framan er strikid med 4, sem er svo mikid sem hundrad skildíngar eru meira en 1 rbdl. eda 96 sk. Byrja eg þá ad skrifa próduktid undir Eínínga-staf skildínganna, hægra megin vid strikid; læt svo gánga frameptir, til vinstri handar, og fram fyrir strikid, ef hundrada-stafir eda þúsunda koma í próduktid, því allir stafirnir, sem eru vinstra megin vid strikid, hvørsu margir sem vera kunna, ega ad margfaldast, eins þeir sem fram koma vid margføldunina, og fá sæti vinstra megin vid strikid, t. d.

1.

| | |
|---|---|
| 6 | 93 |
| | 24 |
| 1 | 17 |
| | 4 |
| 7 rd. | 21 ß |

Hér segi eg: 4 sinum 6 eru 24, sem eg legg saman vid 93. Vid þá samlagníngu kémur út 1 hundrada stafur, og sezt hann því fyrir framan strikid; hann verdur ad margfaldast med 4, og þeir setjast undir 17, sem

| | |
|---|---|
| | 2. |
| 723 | 45 |
| 28 | 92 |
| 1 | 12 |
| | 4 |
| 1 | 53 |
| | 4 |
| 753 rd 57 ß. | |

gengu af hundradinu, þegar út kom vid fyrri margføldunina, og er þá $17 + 4 = 21$, sem eru ß en þad verda alt Ríxdalir, sem fyrir framan strikid stendur.

§. 8.

## Frádragníng.

Sama adferd er brúkud, þegar draga skal frá í Margskyns-talna reikníngi, einsog í almennilegri Frádragníngu, med þeim mismun einasta, ad þegar lána þarf, merkir sá eini, sem lánadur er, ekki **10**, heldur svo marga sem **1** af hværri tegund, inniheldur, af lægstu tegund, t. d. láni eg **1** frá mørkum, gyldir hann **16** sk. láni eg **1** frá ríxdolum, gyldir hann **6** mørk.

Dæmi.

| 1. | 2. |
|---|---|
| 6 ℔ 3 ℔ 8 lód | 824 rd 3 mk 8 ß |
| 4 — 12 — 6 | 759 — 4 — 12 |
| 1 — 7 — 2 | 64 — 4 ÷ 12 |

| 3. | 4. | 5. |
|---|---|---|
| 6 hdr. 106 fisk. | 3 hdr. 25 al. | 12 Sk℔ „ L℔ 3 ℔ |
| 3 — 118 fisk. | 2 — 48 al. | 8 — 5 — 9 |
| 2 hdr. 108 fisk. | „ — 97 al. | 3 — 14 — 10 |

Adferdin er hin sama vid lánstekníngunu, þó engin tala standi í því rúmi, hvar adra tølu á frá ad draga, sjá 5ta dæmi næst á undan.

## §. 9.

## Margføldun.

Þegar margfalda skal Margskyns-tølur, má Margfaldarinn vera einskynjud tala, því hann sýnir einasta, hvad opt margfalda skal hvørja tegund. Margføldunin byrjar frá hægri til vinstri handar, á þeirri lægstu tølu-tegund. Verdi þá, þegar hvør tegund er þannig margføldud, útaf því einn heill eda fleiri, af næstu hærri tegund, legst þad til hinnar næstu tøluradar eda rúms, en afgángurinn skrifast undir þá tølu, sem honum er samkynja, hvar til, eins og ádur er sagt, deilíng er brúkud.

Dæmi.

| 1. | 2. |
|---|---|
| 12 rd 5 mk 12 ß | 9 hdr. 105 ál. |
| 7 | 5 |
| 90 — 4 — 11 | 49 hdr. 45 ál. |

| 3. | 4. |
| --- | --- |
| 7 vætt. 6 fjórd. 17 merk: | 12 Sk℔ 15 L℔ 9 ℔ |
| 7 | 6 |
| 54 — 5 — 19 | 76 — 13 — 6 |

Ef í Margfaldara eru fleiri enn einn Tøluſtafur, þá dreifir madur honum í ſvokallada factora. t. d.

5 ℛ 5 m℔ 5 ß margf: med 16

| | |
| --- | --- |
| 8 | 8 |
| 47 — „ — 8 | 2 |
| 2 | |
| 94 — 1 — „ | |

eda:

5 ℛ 5 m℔ 5 ß. margf: med 16 þannig:

| | |
| --- | --- |
| 4 | 4 |
| 23 — 3 — 4 | 4 |
| 4 | |
| 94 — 1 — „ | |

Í þeſsu dæmi ſtendſt rétt á í dreifíngunni, því 2ſvar 8 eru 16, og eins 4 ſinnum 4 eru 16; en þad er ekki ætíd ſvo, heldur gengur ſtundum, annadhvørt af, eda vantar uppá, ber þad tídum vid í þeim tølum, ſem heita ſtakar. Vanti uppá, ſvo vid þurfi ad bæta, margfaldaſt Margfaldandi med vidbætirnum, og þad ſem út kémur bætiſt vid

seinasta próduktid; sjá 1ta Dæmi; gángi parámóti af, dregst pad frá próduktinu, sjá 2ad Dæmi.

D æ m i :

1.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 18 rd | 5 ℔ | 12 ß | (37 | |
| 113 — | 4 — | 8 — | 6 | |
| 682 — | 3 — | " — | 6 + 1 | |
| 18 — | 5 — | 12 — | | |
| 701 — | 2 — | 12 — | | |

Hér vantadi 1 uppá, því 6 sinnum 6 eru ekki nema 36, og er því Margfaldanda, margføldudum med 1, bætt vid seinasta próduktid.

2.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 18 rd | 5 ℔ | 12 ß | (37 | |
| 151 — | 4 — | " — | 8 | |
| 758 — | 2 — | " — | 5 — 3 | |
| 56 — | 5 — | 4 — | | |
| 701 — | 2 — | 12 — | | |

Hér var 3 ofaukid, því 5 sinnum 8 eru 40; þessvegna margfaldast margfaldandi med þeim, (3) og þad pródúkt dregst frá.

## §. 10.

### D e i l í n g.

Þegar deila skal Margskonar tølum med einskynjudum Deilir, verdur ad byrja á hærstu tegund, verdi þá nokkur afgángur, gjørist hann, eptir ádursøgdum hætti, ad lægri tegund, og leggst vid þá sem næst verdur skipt; verdi líka þaraf afgángur, breytist hann í líki þeirrar næstu tegundar.

Dæmi:

1.

$$3)\ \frac{20 \text{℔} \quad 9 \text{ lód} \quad 2 \text{ kvint.}}{6 - 24 - 2 -}$$

3 í 20 = 6 sinn: þ. e. 6 ℔, gánga af 2 ℔, sem gjørast ad lódum, med því ad margfalda med 32, verda 64 lód; hértil lögd 9 lód = 73 lód; 3 í 73 = 24 lód, gengur af 1 lód, sem gjørist ad kvint: med því ad margfalda med 4 (því í lódi eru 4 kvint.) og þar til leggjast 2 kvint. verda 6; 3 í 6 = 2 kvint.

2.

$$7)\ \frac{12 \text{ rd} \quad 2 \text{ mk} \quad 4 \ \beta}{1 - 4 - 9\frac{5}{7}\ \beta}$$

Merk: Dreifíngu verdur ekki vidkomid í Deilíngunni, nema þarsem allir factorarnir gánga upp í Deilirnum, því hvørki verdur í hénni notad Tillag né Afnám.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 35) | 79 rd | 4 mk | 12 β |
| 5 | 15 — | 5 — | 12 — |
| 7 | 2 — | 1 — | $10\frac{6}{7}$ — |

Géti madur ekki haft Deilirinn í þeirri hædstu Tølutegund, gjørist hún med Margføldun ad annari lægri, hvarvid talan verdur stærri, þ. e. hefir fleiri smærri parta, en þó í sjálfu sér jafn, t. d. ad skipta 3 vætt. 7 fjórd. 13 mk: í 12 stadi, þá verdur fyrst ad gjøra þær 3 vættir ad fjórd. med því ad margfalda þær med 8, og bæta svo vid þeim 7 í næsta rúmi; segi eg því: 12 í 31 hefi eg 2ar, þad eru 2 fjórdúngar; uppá líkan hátt

er farid med afgánginn 7 fjórd. ad þeir gjøraſt ad mørkum, og bætaſt ſvo vid 13, áduren þeirri tegund er ſkipt.

Þar tídkanlegt er ad brúka ſvokollud **Stór-hundrud** (þ. e. 120) í ýmislegum, einkum fiſka-tals-reikníngi, og madur ſtundum verdur ad fá þau út af mørgum Smá-hundrudum, þá er regl-an: ad deila Smá-hundrudunum med 120, það ſem í qvóta kémur verda þá Stór-hundrud, en afgángurinn annadhvørt fiſkar eda álnir, eptir ſem talan var í upphafi vidkend, t. d.

120) 1265 fiſk. (10 hdr. 65 fiſk.
 120 .
afgáng. 65

Stór-hundrud gjøraſt ad Smá-hundrudum, med því ad bæta ſvo opt 20 vid Smá-hundrada tøl-una, ſem Stór-hundrudin eru mørg. Þegar tala Stór-hundrada verdur meiri en $119\frac{1}{2}$ hdr., nefn-iſt hún **hundrud hundrada**, (120 hdr. eda 1 hdr. hdr.)

## 3. Kapítuli.

### Um Brot og Prílidu.

### §. 11.

#### Um Brot.

Brot kallaſt það, þegar Einíngu er ſkipt í jafn-

stóra parta og nokkrir af þeim eru tilteknir. Brot er því einn eða fleiri af Eíníngarinnar jafnstóru pørtum t. d. 1 al. skiptist í 4 qvartil; þá verður 1 qvartil, 2 qvartil, 3 qvartil, 4 qvartil, brot úr Alin, og skrifast $\frac{1}{4}$ al. $\frac{2}{4}$ al. $\frac{3}{4}$ al. $\frac{4}{4}$ al. enn lesast einn fjórði partur, tveir fjórðu partar, 3 fjórðu partar, 4 fjórðu partar úr alin. Sum brot hafa sérdeilis nøfn í málinu svo sem, helfíngar, þriðjúngar, fjórðúngar, fimtúngar, sjøttúngar, áttúngar.

Brot skrifast með tveimur tølum, sú eina heitir **Nefnari**, er skrifast neðan undir striki, og gèfur til vitundar í hvað marga parta Eíníngunni er skipt; hin ønnur heitir **Teljari** er setst fyrir ofan strikið, og gèfur til kynna hvað margir af þessum pørtum eru við høndina t. d. $\frac{2}{3}$ eða 2 Þriðjúngar, $\frac{5}{6}$ eða 5 Sjøttúngar.

Eginlegt brot heitir það, hvar teljarinn er minni enn nefnarinn og er því minna enn 1 heill t. d. $\frac{4}{5}$.

Séu teljari og nefnari jafnir, þá er brotið jafnstórt 1 heilum t. d. $\frac{1}{1}$ $\frac{5}{5}$ $\frac{12}{12}$.

Óeginlegt brot kallast það, hvørs teljari er stærri enn nefnarinn t. d. $\frac{6}{5}$ $\frac{13}{12}$.

Óeginlegt brot má gjørast að blandinni tølu, það er heilu og brotnu með því að deila teljara með nefnara t. d. $\frac{6}{5} = 1\frac{1}{5}$ það er 1 heill og einn

